ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan

MÁLGAGN KOMMÚNISTAFLOKKS ÍSLANDS/ML 16. Tbl. 1976

**Leiðari um skattamál**

SJÁ SÍÐU 2.

# SJÓMENN SVIPTIR VERKFALLSRETTI!

## Ríkisvaldið lögfestir samninga sem sjómenn felldu!

Ríkisvaldið hefur nú að beiðni LÍÚ lögleitt þau samningsdrög sem forysta Sjómannasambandsins skrifaði undir, en sjómenn hafa fellt tvívegis í kosningum. Lögin staðfesta lækkun skiptaprósentunnar og eiga að gilda 7 mánuði aftur í tímann. Einnig eru ákvæði í þessum ólögum sem banna allar aðgerðir (s. s. verkföll og samúðarverkföll) til að knýja fram aðra skipan kjaramála. Brot á lögunum falla undir refsilöggjöfina. Með þessarri lagasetningu afhjúpar ríkisvaldið sig enn sem verkfæri borgaranna sem nú er beitt gegn sjómönnum. Það hvarflar ekki að borgarastéttinni að virða frjálsan samningsrétt verkafólks degi lengur en það þjónar þeim tilgangi að fela arðránið í þjóðfélaginu.

Þessi bráðabirgðalög eru aðeins fyrsta skrefið í þeirri áætlun ríkisvaldsins að takmarka eða afnema alveg frjálsan samnings- og verkfallsrétt verkafólks í landinu. Því ber væntanlegt frumvarp að nýrri vinnulöggjöf glöggt vitni. Baráttan gegn þessarri valdníðslu er því ekkert einkamál sjómanna heldur varðar hagsmuni alls verkafólks og vinnandi alþýðu.

Svik og slappleiki forystunnar innan Sjómannasambandsins hefur veikt mjög baráttuaðstöðu sjómanna. Með því að skrifa undir samningana lögðu þeir blessun sína yfir þá og gáfu þannig ríkisvaldinu vopn í hendurnar til að nota gegn sjómönnum. Í leiðara Morgunblaðsins 9. sept. kemur það vel fram, en þar segir m. a.: "Bráðabirgðalögin byggja á þeim samningum sem gerðir voru við sjómenn í vetur (6 félög samþykktu en yfir 20 felldu/innsk. Stb.) og voru með þeim viðbótarkjarabótum sem fólust í síðustu undirrituðu samningum (undirstr. Stb.)... Það er því á engan hátt hægt að halda því fram að hér hafi verið vegið að sjómönnum á einn eða annan hátt"

Uppkeypta forystan, sem sjálf hefur alltaf tekið samningamakkið fram fyrir leið fjöldabaráttunnar, kemur einnig fram í fjölmiðlum með síendurteknar lygar um dáðleysi sjómanna og skort þeirra á baráttuhug. Slíkar yfirlýsingar þjóna aðeins hagsmunum útgerðarmanna.

Allar aðgerðir sjómanna hafa nú verið bannaðar og forysta þeirra er ekki líkleg til að vilja brjóta landslög til að verja hagsmuni sjómanna. Þess vegna verða sjómenn nú að treysta algerlega á eigin krafta. Brýnasta verkefnið í dag er að krefjast strax funda í öllum félögunum þar sem rætt verði hvernig hægt er að brjóta bráðabirgðalögin á bak aftur og tryggja sjómönnum mannsæmandi kjör.

Sjómenn eru þegar byrjaðir að skipuleggja andstöðuna. Nokkrir sjómenn hafa tekið sig til og samið og undirritað harðort mótmælaskjal sem þeir hyggjast senda ríkisfjölmiðlum og Sjómannasambandinu. Á að afhenda Matta Bjarna það þegar hann hundskast heim aftur. Bréfið er birt annars staðar í blaðinu. Stéttabaráttan skorar á alla sjómenn að senda slík bréf til þessarra aðilja og láta blaðið vita ef fjölmiðlar reyna að þegja þau í hel (sími blaðsins er 27810 milli kl. 3 og 6.30,

Einnig skorum við á landverkafólk að senda sínum félögum bréf með áskorun um að þau lýsi yfir stuðningi við sjómenn.

Fundi í félögunum strax!

Brjótum þrælalög auðvaldsins á bak aftur!

-/I. P. -ritstj.

# Kerfið er rotið

Þau fjármálasvik sem tröllriðið hafa samfélaginu undanfarnar vikur og mánuði eru ekki aðeins dæmi um að meinsemdir fyrirfinnist í þjóðskipulaginu, meinsemdir sem unnt sé að uppræta með skeleggum aðgerðum stjórnvalda. Þau sýna öllum almenningi svart á hvítu fram á að sjálft kerfið er rotið. Spillingin býr ekki aðeins í skúmaskotum heldur á sér rætur í sjálfu eðli þess þjóðskipulags sem við búum við.

Það er ekki svo að fjármálaspillingin sé fyrst að koma fram núna. Hún hefur verið við lýði um áraraðir. Hver man til dæmis ekki eftir Olíumálinu alræmda, einu mesta fjársvikamáli sem upp hefur komið hér á landi og forkólfar Framsóknarflokksins og SÍS voru flæktir í? Hér er ekki um undantekningar að ræða. Enda er forsenda fjármálaspillingarinnar margháttuð hagsmunatengsl gróðaaflanna og toppanna í ríkiskerfinu og bönkunum. Flokkarnir eru allir með tölu innlimaðir í þetta svikanet. Tengsl þeirra við fjármálasvikin eru margvísleg, ýmist bein eða óbein. Gott dæmi um slík tengsl er t. a. m. samband Guðjóns Styrkárssonar við Framsóknarflokkinn, en hann er í fjármálastjórn hans ásamt Kristni Finnbogasyni.

### Svik innflytjenda

Heildsalamálið er skýrt dæmi um spillingu sem viðgengist hefur í lengri tíma. Fjöldi heildsala hefur um árabil stundað þá iðju að fá hluta umboðslauna sinna greiddan í erlendum gjaldeyri sem lagður er inn á banka erlendis. Þannig hafa heildsalar komist hjá því að greiða nokkurn skatt af þessum umboðslaunum. Það er ekki í fyrsta sinn núna sem þessu máli er hreyft. Fyrir nokkrum árum glopraði Jón Sólness bankastjóri því út úr sér að margir íslendingar ættu háar fjárhæðir inni í erlendum bönkum. Þá ruku fjölmiðlarnir upp til handa og fóta en síðan var málið þaggað niður.

Það sama gerðist í fyrra þegar upp komst að fjármálamenn ýmsir ættu sumarbústaði á Spáni. Málið var sett í rannsókn og síðan hefur ekkert heyrst um það. Sjálfsagt verður það þaggað niður eins og flest annað sem kemur illa við mikilsmegandi aðila í þessu þjóðfélagi.

Annað mál sem mikla athygli hefur vakið undanfarið eru svik í sambandi við skipakaup erlendis frá. Komust þau í sviðsljósið vegna hins svokallaða "Grjótjötunsmáls." Komið hefur fram að skipaeigendur hafa iðkað það að falsa kaupverð á skipum til að fá meiri lán og gjaldeyri. Hafa þeir jafnvel gefið upp kaupverð sem er verulega hærra en raunverulegt verð hefur numið, og þannig svikið út meira en 100% lán. Þetta er ennþá svívirðilegra ef haft er í huga að þessir sömu fjársvikarar geta leikið sér að því að sýna bókhaldstap á sömu skipum ár eftir ár vegna afskriftareglna og komist þannig hjá að greiða nokkra skatta af rekstri skipsins. Að 3-4 árum liðnum þegar afskriftirnar nema orðið 100% geta þeir selt skipið aftur fyrir mörgum sinnum hærri upphæð en upphafleg fjárfestingu nam. Og söluhagnaðurinn er að sjálfsögðu að mestu leyti undanþeginn skatti.

Fjáraflamennirnir moka inn auði af fjárfestingu sem þeir hafa jafnvel ekki lagt eyri í úr eigin vasa. Gróðinn er gífurlegur.

Ávísanakeðjumálið er ekkert annað en smámunir miðað við það svívirðilega gróðabrall sem hér fer fram og er baktryggt af lögum auðstéttarinnar.

-/mvs

# Svikasamningar felldir

Sjómenn felldu samningana og undirstrikuðu um leið þá staðreynd að forystuliðið í Sjómannasambandinu er algjörlega úr tengslum við starfandi sjómenn og með samningabrölti sínu er forystan ekki aðeins hemill á kjarabaráttu sjómanna heldur beinlínis stéttsvikarar.

Í þeirri baráttu sem sjómenn eiga nú framundan verður eitt mikilvægasta verkefnið að einangra Sjómannasambandsforystuna algjörlega með því að gefa henni ekkert samningsumboð heldur semja sjálfir í hverjum landsfjórðungi.

Þessi samningsdrög sem sjómenn voru nú að fella voru hvorki árangur langra og lýjandi samningafunda né afrakstur skipulagðra fjöldaaðgerða sjómanna. Samningsdrögin hafa lítið breyst frá því að þau lágu ofan í skúffu sjávarútvegsráðherra sem hugðist keyra þau í gegnum Alþingi skömmu fyrir þinglok í vor. Stjórn LÍÚ taldi hins vegar réttara að láta líta svo út fyrir sem þetta væru niðurstöður langrar samningalotu. Á þann hátt mætti e. t. v. styrkja stöðu stjórnar Sjómannasambandsins en LÍÚ er mjög í mun að viðhalda völdum hennar.

Í þessu sambandi er rétt að hafa í huga viðbrögð forystunnar þegar verkfallsaðgerðirnar voru endanlega brotnar á bak aftur nú í vor þegar tvö loðnuskip frá Reykjavík héldu til veiða þrátt fyrir hjáróma mótmæli Sjómannafélags Reykjavíkur. Það eina sem virtist komast að hjá Guðmundi Hallvarðssyni og félögum var hvernig hægt væri að klekkja á þeim sjómönnum sem gerðust verkfallsbrjótar. T. d. var athugað hvort hægt væri að reka þá úr félaginu en slíkt er ekki löglegt. Hins vegar gerðu þeir ekkert til að styðja þá sjómenn sem voru reknir vegna þess að þeir neituðu að fremja verkfallsbrot. Reiði stjórnarmannanna beindist ekki að útgerðarmönnum sem stóðu á bak við verkfallsbrotin. Það sést best á því að þeim datt ekki í hug að rétt væri að víkja Páli Guðmundssyni, sem er einn af þremur eigendum Guðmundar RE (annar verkfallsbrjóturinn) og einn af eigendum bræðslunnar í Keflavík, úr sæti sem fulltrúi sjómanna í Verðlagsráði loðnuafurða. Nei, það eru sjómennirnir sem eru aðalsökudólgarnir!!

Í lok júnímánaðar var haldinn fundur í stjórn Sjómannasambandsins og átti þarað ræða hugsanlegar aðgerðir til að knýja stjórn LÍÚ til raunverulegrar samningagerðar en ástandið var þá þannig að aðeins á 6 stöðum á landinu voru undirmenn búnir að semja, en útgerðarmenn annars staðar borguðu eftir eigin geðþótta. Fundurinn leystist brátt upp vegna þess að forystuliðið, Reykjavíkurfélagið og einn eða tveir aðrir fulltrúar töldu enga ástæðu til að fara í hart "fyrr en reynt hefði verið að ná samkomulagi." Mánuði síðar undirritar svo þetta sama lið samninga sem fela ekki í sér neinar kjarabætur til sjómanna en viðurkenna lækkun skiptaprósentunnar. Stéttsvikararnir hælast svo um og segja þetta vera bestu hugsanlegu samninga, sem hægt sé að ná, vegna hins mikla áhugaleysis og doða sem ríki meðal sjómanna.

Starfsemi sjómannafélaga og -deilda virðist oft beinast fyrst og fremst að því að innheimta félagsgjöld og klekkja á starfandi sjómönnum, t. d. þeim sem flytjast oft milli verstöðva og verða að greiða tugþúsundir í gjöld til allt að 3-4 félaga. Verkalýðsleiðtogarnir drottna yfir sínum félögum og ræðast jafnvel oft ekki við innbyrðist, ekki einu sinni til að móta sameiginlegar kröfur, hvað þá að þeir ræði við starfandi sjómenn um slíkt. Í sjáv-

Framhald á bls. 4



Félagi Mao Tse-Tung er látinn. 17. tbl. stb. er að mestu leyti helgað minningu hans.




Stéttabaráttan 16. tbl
5. árg. 16/9. 1976.

Útg.: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
STÉTTABARÁTTAN kemur út hálfsmánaðarlega.
Póstfang: Pósthólf 1357, Rvík.
Sími: 27810.
Ritstj. & ábm: Ólafur Ingólfsson
Gíró:27810.

# Skattarnir koma harðast niður á láglaunafólki

Að undanförnu hafa skattarnir verið aðalumræðuefni alþýðufólks. Ástæðan fyrir því er fyrst og fremst sú, að skattskráin opinberar alveg sérstaklega misréttið í þjóðfélaginu, hvernig erfiðleikum atvinnuveganna og ríkisbúskaparins er velt yfir á herðar vinnandi fólks, sem verður að borga brúsann, á meðan stóreignamenn og braskarar sleppa við öll meiriháttar gjöld til ríkisins.

En hverju er um að kenna? Eru það afglöp embættismanna eða gloppur í skattakerfinu, sem orsaka þessa gífurlegu skattpíningu á láglaunafólki, samtímis sem fjölmargir auðmenn borga lítinn sem engan tekjuskatt? Nei, þvert á móti. Skattalögin eru einmitt sniðin fyrir stóreignamennina, braskaralýðinn og borgaralega embættismenn. Þeir notfæra sér lögin til að svíkja undan skatti. Á þetta hefur verið bent með óyggjandi rökum í Stéttabaráttunni. Venjulegur verkamaður hefur aftur á móti enga möguleika á því að komast hjá útgjöldum til ríkisins. Hver einasta króna, sem hann vinnur sér inn er gefin upp til skatts. Í ár má ætla, að fyrirtæki losni við að borga tæplega 7 milljarði í tekjuskatt til ríkisins, en sú upphæð losar ríflega upphæð tekjuskatts allra einstaklinga í landinu.

Skattskráin afhjúpar betur en nokkuð annað stéttaandstæðurnar í auðvaldsþjóðfélaginu, þann gífurlega aðstöðumun sem borgarastéttin býr við annars vegar og verkalýðurinn og öll vinnandi alþýða hins vegar. Þannig afhjúpast líka hvernig ríkisvaldið er notað í þágu atvinnurekenda til að arðræna og kúga verkalýðinn.

Baráttan gegn ranglæti skattalaganna er því eitt brýnasta hagsmunamál verkalýðsins. Í því máli hefur Kommúnistaflokkur Íslands sett fram eftirfarandi kröfur:

1. Skattar á launum lágtekjufólks verði afnumdir.
2. Söluskattur á nauðsynjavörum verði numinn úr gildi.
3. Skattar á auðfyrirtækjum verði stórhækkaðir og öllum lögum um skattfríðindi fyrirtækja útrýmt.

Það er í skjóli einkaeignarréttarins á framleiðslutækjum, verslun og þjónustu, sem borgarastéttin veltir byrðum sinnar eigin kreppu yfir á herðar verkalýðsins, sem skattskráin er skýrt dæmi um. Þetta misrétti og þetta ranglæti verður ekki að fullu afnumið nema það þjóðskipulag, sem gerir ráð fyrir slíkum leikreglum verði afnumið. Þess í stað verður að berjast fyrir því, að því þjóðskipulagi, sem sniðið er að þörfum vinnandi fólks til sjávar og sveita verði komið á - þjóðskipulagi sósíalismans.

3/9

# Fréttatilkynning

Kommúnistaflokkur Íslands ml hélt mótmælafund fyrir utan sovéska sendiráðið þ. 21. ágúst í tilefni þess að átta ár eru liðin frá innrásinni í Tékkóslóvakíu.

Nú hefur það komið opinberlega fram að sovéska sendiráðið krafðist þess af íslenskum stjórnvöldum að fundurinn yrði bannaður. Til rökstuðnings kröfu sinni vísuðu fulltrúar sendiráðsins til Helsinkisamkomulagsins.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar KFÍ/ML fordæmir harðlega þessi ósvífnu afskipti sovéska sendiráðsins af íslenskum innanríkismálum. Þessi tilraun fulltrúa sósíalheimsvaldastefnunnar til að hafa áhrif á íslensk málefni er skýrt dæmi um afstöðu þeirra til fullveldis annarra ríkja. Ennfremur sýnir þetta atvik hvaða tilgang ráðstefnan um frið og öryggi í Evrópu (Helsinkiráðstefnan) hafði í rauninni af hálfu Brésnefs.

Á Íslandi mótmæla sósíalheimsvaldasinnarnir "andsovéskum" athöfnum með yfirlýsingum. En í Austur-Evrópu beita þeir vopnum og opnum kúgunaraðgerðum.

Framkvæmdanefndin hvetur íslenska alþýðu til að auka árvekni gagnvart tilraunum risaveldanna, Sovétríkjanna og Bandaríkjanna, til að skerða fullveldi annarra ríkja með freklegum afskiptum af innanríkismálum þeirra.

F. h. Framkvæmdanefndar miðstjórnar Kommúnistaflokks Íslands ml
Gunnar Andrésson (sign)

# Til áskrifenda

Nú hefur fjöldi áskrifenda fengið senda gíróseðla til innheimtu á gjaldföllnum áskrifta gjöldum. Ritstjórn skorar á alla þá sem hafa fengið gíróseðil að greiða hann við fyrsta tækifæri í næsta pósthúsi eða banka. Sú rukkun sem nú fer fram nær til 12. tbl. '76 og er stefnt að því að allir áskrifendur verði skuldlausir innan skamms. Næsta rukkunarherferð verður ekki fyrr en síðan framkvæmd í haust og vetrarbyrjun. Það fé sem nú kemur inn fer að mestu í að undirbúa útgáfu STÉTTABARÁTTUNNAR sem vikublaðs. Áskrifendur mega því ekki liggja á liði sínu.

HVERNIG KEMST ÞÚ Í SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS/ML?

Miðstjórn: Pósthólf 1357 Reykjavík, einnig í síma 27810.
Ritstjórnir Stéttabaráttunnar og Rauða fánans: Pósthólf 1357, Rvík, einnig í síma 27810.
Reykjavíkurdeild: Lindargötu 15, sími: 27810.
Akureyrardeild: Guðvarður M. Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23, einnig pósthólf 650, Akureyri.
Suðurnesjadeild: Jónas H. Jónsson, Holtsgötu 26 Njarðvík, sími: 2641.
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Neskaupstaður: Stuðningsdeild c/o Messíana Tómasdóttir, um.
Snæfellsnes: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10, Hellissandi.

Hvar geturðu keypt Stéttabaráttuna?

SUÐURLAND:
Reykjavík: Rauða stjarnan, Lindargötu 15.
Bóksala stúdenta í Félagsstofnuninni v/ Hringbraut.
Einnig fæst blaðið nú í mörgum söluturnum.
Suðurnes: Hrólfur B. Ágústss. Háaleiti 5, Keflavík ..
Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.
Vestmannaeyjar: Guðrún Garðarsdóttir, Þorlaugsgerði.
VESTURLAND:
Hellissandur: Sigfús Almarsson, Skólabraut 10.
ÓLAFSVÍK:
Jón Guðmundsson
Ólafsbraut 20
ÍSAFJÖRÐUR:
Kristinn Karlsson
Fjarðarstræti 9
NORÐURLAND:
Akureyri: Guðvarður Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23
Siglufjörður: Söluturnin við Aðalgötu.
Húsavík: Þórarinn Ólafsson, Sólbrekku 5.
AUSTURLAND:
Neskaupstaður: Messiana Tómasdóttir,
Íslendingar erlendis.
Nú getið þið keypt Stéttabaráttuna hjá umboðsmönnum okkar í nokkrum borgum á norðurlöndum.
NOREGUR:
Oslo: Katrín H. Andrésdóttir, Sogn Studentby 1310, Oslo 8.
SVÍÞJÓÐ:
SOLNA: Magnús Sæmundsson, Kungshamra 23a, 17170, Solna.
LUNDUR: Jón Rúnar Sveinsson, Kämnarsvägen 5 D: 218 222 46 Lund.
DANMÖRK:
ÅRHUS: Magnús Þorgrímsson, Börglum Kollegiet v 444, Börglumsvej 2, 8240 Risskov.

# Láttu Stéttabaráttuna flytja með þér

Áskrifendur STÉTTABARÁTTUNNAR flytja eins og annað fólk - en alltof margir trassa að tilkynna okkur nýja heimilisfangið tímanlega og sumir gera það aldrei. Láttu það ekki henda þig ef þú flytur. Tilkynntu okkur við fyrsta tækifæri hvert á að senda blaðið.

# Hið sanna eðli Helsinki sáttmálans kemur í ljós: Sovétríkin vilja banna löglegan fund

Sovéska sendiráðið í Reykjavík krafðist þess að íslensk yfirvöld bönnuðu mótmælafund KFÍ/ML fyrir utan sendiráðið þ. 21. ágúst s.l. Tilefni fundarins var að 8 ár eru liðin frá því að sovéski herinn réðist inn í Tékkóslóvakíu og var það tilefni notað til þess að vekja athygli á og fordæma stríðsundirbúning sósíalheimsvaldasinnanna. Krafa sendiráðsins var rökstudd með tilvísun í Helsinkisamþykktina án þess þó að sérstakar greinar hennar væru tilgreindar. Með þessari aðgerð sinni hafa fulltrúar sovétstjórnarinnar afhjúpað hvaða augum þeir líta samþykktina og í hvaða tilgangi sósíalheimsvaldasinnarnir undirrituðu hana. Tilgangurinn var eingöngu sá að reyna að slá ryki í augu alþýðunnar um allan heim með talinu um öryggi og samvinnu Evrópu - samtímis því sem stríðsundirbúningur er hertur til muna.

Eins og Stéttabaráttan skýrði frá á sínum tíma (8. tbl. '75), þá var tilgangur Brésnefs með Helsinkiráðstefnunni eingöngu sá að reyna að freista þess að slá ryki í augu alþýðu heimsins með friðarhjali sínu. Samtímis því sem talið um öryggi og samvinnu gerist háværara þá er framleiðsla vígvéla aukin. Allt tal Brésnefs og Fords um "slökun" spennu er jafn gegnum falskt og yfirlýsingar sósíalheimsvaldasinnanna um að þau virði rétt annarra ríkja til að ráða sínum málum sjálf.

Lítum aðeins á þann texta sem Brésnef og Ford undirrituðu í Helsinki. Þar segir m. a. "Þátttökuríkin munu ekki á neinn hátt, beinan eða óbeinan, hvert fyrir sig eða sameiginlega, hlutast til um innanríkismál eða utanríkismál, sem falla undir lögsögu einhvers annars þátttökuríkis, hvernig sem gagnkvæmu sambandi þeirra er háttað."

Ennfremur. "Þátttökuríkin munu virða mannréttindi og grundvallarfrelsi, þ. á. m. hugsana-, samvisku-, trúarbragða- eða sannfæringarfrelsi án tillits til kynþáttar, kynferðis, tungu eða trúarbragða."

Eru aðgerðir sovéska sendiráðsins hér, þegar það reynir að fá löglegan fund bannaðan hérlendis, í samræmi við hlutunarleysi um innanríkismál?- eða virðingu á grundvallarfrelsi??

Krafan um að fundur KFÍ/ML væri bannaður sýnir að Kremlherrarnir hyggjast nota Helsinkisáttmálann til þess að þagga niður í þeim röddum sem vinna að því að afhjúpa hið sanna eðli sovétstjórnarinnar í dag. Þeir telja sig geta gert kröfur sem eru í fullkomnu ósamræmi við stjórnarskrár viðkomandi landa, þeir virða ekki sjálfstæði annarra landa í raun. Þrátt fyrir fögur orð í Helsinkisamþykktinni þá er staðreyndin sú, að undirskrift heimsvaldasinnanna er ekki einnar krónu virði fyrir alþýðu heimsins.

Fulltrúar Brésnefs (sem var aðalhvatamaður að Helsinkiráðstefnunni) hér á landi hafa fært okkur í hendur fyrirtaks dæmi um að svo sé.

Hinir nýju keisarar í Kreml létu heri sína ráðast gegn tékkneskri alþýðu og þeir hinir sömu hafa nú undirritað Helsinkisamþykktina sem m. a. fjallar um virðingu fullveldis, friðhelgi landamæra, friðsamlega lausn deilumála, andstöðu gegn valdbeitingu, íhlutunarleysi um innanríkismál o.fl. o.fl

Þarf frekari vitna við um eðli sósíalheimsvaldasinnanna og tilgang Helsinkisamþykktarinnar?






Brésnéff brosir blítt og er reiðubúinn til að undirrita alls konar samninga um viðurkenningu á fullveldi annarra ríkja. Það var Hitler líka.



Mynd frá mótmælafundinum.

# Vel heppnuð undirskriftasöfnun: 17 þúsund söfnuðust

Nú er undirskriftasöfnuninni gegn lokun mjólkurbúða lokið. STÉTTABARÁTTAN fékk þær upplýsingar frá starfshópnum, sem stóð að söfnuninni, að þetta hefði gengið mjög vel og fengið góðar undirtektir. Alls söfnuðust a.m.k. 17.138 undirskriftir, og voru listarnir afhentir forstjóra Mjólkursamsölunnar þriðjudaginn 7. sept. Ekki lá ljóst fyrir, hvernig forsvarsmenn MS brugðust við afhendingunni, þegar blaðið fór í prentun, en eitt er víst, að ekki geta þeir verið þekktir fyrir að hunsa þessa aðgerð.

## Forysta ASB aðgerðarlítil

Blaðamaður STÉTTABARÁTTUNNAR hafði samband við formann ASB til að heyra hvað væri á döfinni hjá stjórninni, og hvað hún hefði gert í málum stúlknanna 167, sem koma til með að missa atvinnu sína ef til lokun mjólkurbúðanna kemur. En þar var komið að tómum kofunum. Ekkert hafði verið gert, þó svo að mál þetta hafi verið í deiglunni í rúm tvö ár, annað en að taka þetta vafasama loforð af Kaupmannasamtökunum, um að stúlkurnar mundu ganga fyrir um vinnu næsta árið í verslunum sem koma til með að selja mjólk.

Ekki hefur verið haldinn almennur félagsfundur í ASB síðan um áramótin síðustu, og aðspurð kvað formaðurinn að ekki stæði til að halda fund á næstunni, því stjórnin ætlar að bíða og sjá til hvað kemur út úr undirskriftasöfnuninni. En vel að merkja, undirskriftasöfnuninni var m.a. hleypt af stokkunum fyrir frumkvæði einstaklinga úr hópi neytenda og starfsstúlkna í mjólkurbúðum, vegna aðgerðarleysis stjórnarinnar.

Stjórnin hefur nú reyndar sent frá sér fréttatilkynningu til dagblaðanna þess efnis, að hún styðji undirskriftasöfnunina. Hvað varðar félagsleg réttindi stúlknanna er sömu sögu að segja. Hvað verður um lífeyrissjóð ASB og hvað verður um þær konur sem þegar þiggja lífeyri úr sjóðnum þegar ekkert bætist í hann, hvorki frá MS né starfandi stúlkum í ASB? Aðspurður sagði formaðurinn að þessi vandamál ætti eftir að leysa, stjórnin væri að bíða eftir því hvað kæmi út úr undirskriftasöfnuninni. En nú er hin almenna félagskona orðin þreytt á þessu endalausa aðgerðarleysi.

STÉTTABARÁTTUNNI var tjáð í einni af mjólkurbúðum borgarinnar að þess hafi verið farið á leit við stjórnina, að hún boðaði til almenns félagsfundar. En stjórnin neitaði á þeim forsendum að það væri ekki vani að hafa fund á þessum tíma, og svo væri engin ástæða til að halda fund nú. En konurnar létu ekki þar við sitja, heldur söfnuðu undirskriftum meðal starfssystra sinna til að krefjast fundar. Eins og menn vita verður stjórn verkalýðsfélags að halda fund er nægilega margir félagsmenn krefjast þess. Verður því haldinn fundur í þessari viku, og hvetur STÉTTABARÁTTAN alla til að styðja hverja þá áframhaldandi aðgerð sem kanna að vera skipulögð í þessu máli.

## Kaupmenn koma til með að krefjast hærra mjólkurverðs

Svo við snúum okkur að því sem að neytendunum snýr, má búast við því að kaupmenn beiti sér fyrir því að fá heimild til að hækka álagningu á mjólk og mjólkurvörum, en eins og kunnugt er, er hún miklu lægri en á öðrum vörum, eða 7%. Þetta gætu þeir gert m.a. á þeim forsendum að mikill kostnaður fylgir sölu þessarar vöru, það þarf að vera ákveðinn kælir til í þeim verslunum sem taka að sér mjólkursölu, og svo krefst öll meðferð á mjólk geysimikils hreinlætis.

Að lokum viljum við enn einusinni hvetja alla til að styðja stúlkurnar í baráttu þeirra, og láta yfirlýsingar forráðamanna Mjólkursamsölunnar þess efnis, að næga atvinnu sé að fá fyrir þær, því "við búum í svo gróskumiklu þjóðfélagi" ekki slá ryki í augun á sér.

-/ISJ

# Lög um námsefni

Á síðustu dögum þingsins í vor var þrasað um lengi hvort rita skyldi bókstafinn z þar sem við ætti. Í rauninni skiptir það sáralitlu máli hvort z verður tekinn upp að nýju eða ekki. Höfuðmáli skiptir að berjast gegn því að lög verði sett um stafsetningu. Lög um stafsetningu yrðu sennilega ekki annað en undanfari þess að lög yrðu sett um námsefni í fleiri greinum grunnskólans. Það getur þó verið að lög um starfsetninu séu ekki mjög skaðleg út af fyrir sig, heldur er það fordæmið sem þau gæfu sem er skaðlegt.

Lögleiðing námsefnis vekur þá spurningu hvort börn verði lögbrjótar ef þeim tekst ekki að svara rétt á prófi, eða hvort blaðamenn verði lögbrjótar ef þeir gera villu. Ég efast stórlega um að allir þingmennirnir, sem setuna vilja, séu alveg klárir á að rita hana.

Nei, þetta er fráleitt og okkur ber að berjast gegn því að nokkurt slíkt frumvarp verði samþykkt, við verðum jafnvel að berjast gegn z-frumvarpinu.

-ing.

# Skattsvikin eru baktryggð á Alþingi

Í ár sleppa 511 stórfyrirtæki sem velta alls 37 milljörðum króna. Þeir 7,5-9 milljarðar sem fyrirtæki þessi ættu með réttu að greiða til ríkisins í tekjuskatt verða launamenn landsins að borga. Þessi svik eru baktryggð af skattalögum auðstéttarinnar og ríkisins.

Það er athyglisvert að af veltu þessara fyrirtækja velta 16 um 44%. Aðstöðugjöld þeirra nema alls 161,282.300 milljónum króna af um 370 milljónum. Þessar tölur sýna vel þá geysilegu samþjöppun sem átt hefur sér stað í framleiðslunni.

En hver eru þessi 16 stórfyrirtæki sem af 17 milljarða veltu greiða ekki eyri í tekjuskatt. Þau eru: Almennar tryggingar, Breiðholt hf, Brunabótafélag Íslands, Flugleiðir hf, Glóbus hf, Hafskip hf, Kassagerð Reykjavíkur, KRON, Samáb. ísl. fiskiskipa, Samvinnutryggingar, Sindrastál hf, Sláturfélag Suðurlands, Sveinn Egilsson hf, Sölumiðstöð hraðfrystihúsanna, Veltir hf, Sjóvá.

## Löglegar leiðir til skattsvika

Stéttabaráttan hefur áður getið þeirra leiða sem ríkisvaldið gefur auðherrunum kost á til að svíkja undan skatti. Við skulum líta á þær enn á ný:

1. Mörgum fyrirtækjum er gefið leyfi til að meta vörubirgðir á allt of lágu verði. Þannig geta þau velt á undan sér miklum fjármunum án þess að þeir komi fram fyrr en löngu síðar. Og verðbólgan sér um að gróðinn verði dávænn.

2. Tryggingarfélög geta lagt til hliðar miklar upphæðir til "ógreiddra bótagreiðslna" og skotið þannig undan miklum gróða.

3. 25% af hreinum tekjum má leggja í varasjóð sem ekki er skattaður.

4. Af kaupverði skipa, vöruflutningatækja, vinnuvéla og fleira má afskrifa á ári 15%. Annað lausafé má afskrifa um 12,5% og fasteignir um 2-8% Þessar reglur eru svívirðilegar sérstaklega þar sem lánsfé stendur yfirleitt undir 50-90% af fjárfestingum auðherranna. Fyrningin veitir þeim í aðra hönd fé sem þeir eiga ekkert í.

5. En almenna fyrningin er ekki nóg fyrir braskaralýðinn. Til viðbótar þessum 15% fá þeir "óbeina fyrningu" sem sögð er miðuð við verðhækkunarstuðul og hækkar það almennar afskriftir upp í 21,75%

6. Ofan á almennu fyrninguna bætist svo "flýtifyrningin" sem er 6% á ársgrundvelli.

Samkvæmt reglum þessum er bröskurum og öðrum afætulýð opnuð leið til að skjóta undan í kringum helmingi af hreinum gróða. Hér er enginn að "leika á" skattalögin.

-/mvs

# Hver á sökina eða heiðurinn?

Mikilli prentsvertu er eytt í það hjá ýmsum blöðum til að sanna að þessi eða hin ríkisstjórnin hafi nú verið aldeilis frábær - eða öfugt.

Mest eru það Mogginn og Þjóðarviljinn sem bítast um heiður ríkisstjórnanna - en Tíminn hefur farið milliveginn og segir báða ljúga að hálfu, þ.e. þegar að Mogginn segir að núverandi ríkisstjórn sé góð en "vinstri"stjórnin slæm (og öfugt hjá Þjóðviljanum) þá segir Tíminn að báðar hafi verið góðar. Það sem Þórarinn Tímaritstjóri á við er það að báðar ríkisstjórnirnar hafa haft það til síns ágætis að í þeim sátu framsóknarmenn.

Nú hefur Moggi birt heilmikið línurit (sjá mynd) þar sem sannað er svart á hvítu að "vinstri"stjórnin á verðbólgumetið. Og afstaða Framsóknar verður öllu skiljanlegri þegar þetta afrek "vinstri"-stjórnarinnar er skoðað nánar.

En eins og allir vita þá upplýsti fyrrverandi skattrannsóknarstjóri í sjónvarpinu að þeir sem græddu á verðbólgunni væru þeir sem hefðu fullkomna fyrirgreiðslu í bönkunum og fengju þar óverðtryggð lán, til að kaupa fasteignir o.fl

Vilmundur Gylfason hefur nú upplýst (Dagblaðið 3.9.) að Einar Ágústsson fékk 5,7 milljónir lánaðar í Landsbankanum til 8 ára. Forkólfar Framsóknar eru því meðal þeirra sem mest græða á verðbólgunni, það er því ekki að undra þótt þeir líti undanfarnar (og núverandi) verðbólguríkisstjórnir glöðum augum.




Þróun verðbólgunnar 1960-1976. Lóðréttu línurnar, sýna stjórnarskipti, en hvíti stöpullinn fyrir 1976, er áætlaður.

# ÚREINU ÍANNAÐ

Ýmsir misskildir vinstrimenn eru allt að því óþreytandi í því að segja okkur "maóistunum" að þar sem við skilgreinum Sovétríkin sem heimsveldi á uppleið og meginuppsprettu heimsstyrjaldarhættunnar, þá ættum við að styðja NATO. Og gjarnan er það látið fljóta með að kínverjar geri slíkt nú þegar (þetta er lygi sem hefur verið afhjúpuð). Það sem þessir menn afhjúpa hjá sjálfum sér er ekkert annað en hvernig þeir myndu bregðast við, við svipaðar aðstæður. Þ.e.a.s. þeir myndu styðja eina auðvaldsblokkina gegn annarri. Enda gera sumir það nú þegar með stuðningi sínum við yfirgang sósíalheimsvaldastefnunnar t.d. í Angóla.

Það er ekkert eðlilegra en að Alþýðubandalagið, Fylkingin og Sósíalistafélag Reykjavíkur telji að það sé sósíalismi við lýði í Sovétríkjunum, Póllandi og víðar. Þessi samtök eru sjálf fulltrúar fyrir samskonar afskræmdan "sósíalisma" sem er tíðkaður í löndunum þar sem endurskoðunarsinnar ráða. Gagnrýni þessara aðila á framkvæmdina í Sovét og víðar er einskis virði því að þeir eru sammála endurskoðunarsinnum í grundvallaratriðum.

Það hefur líka komið á daginn að ofangreind samtök eru iðnustu útbreiðendur kremláróðurins um Kína og "maóista" yfirleitt, þeir hafa tekið afstöðu með endurskoðunarstefnunni og eru sjálfir endurskoðunarsinnar.

Þjóðviljaskríbentinn Þröstur Haraldsson er iðinn andstæðingur "maóismans". Í dálki sínum "Klásúlum" fæst hann við skrif um tónlist (popp) og þykist því glaðari ef hann kemur auga á pólitískt popp í hljómplötuverslunum. En þegar ÞH fjallaði um framboð pólitískra hljómskífa þá "gleymdi" hann að geta um þann aðila sem mest gerir af því að flytja inn slíkar skífur, þe. Bókaverslunina Rauðu stjörnuna. En ÞH hefur nú skýrt afstöðu sína til þessa máls í Þjóðviljanum 8.8. sl. Það kom nefnilega í ljós að hann skoðar skrif sín um hljómlist sem þjónustu við hljómplötubissnissmenn, en þar sem "maóistar" hafa talað illa um Þjóðviljann þá "verkar það nú samt eilítið ankannalega að forsvarsmenn Rauðu stjörnunnar skuli yfirhöfuð búast við einhverri þjónustu af hendi Þjóðviljans" (Þjóðv. 8.8. bls. 16).

Þessi þjónusta ÞH nær því ekki að kynna þá verslun sem hefur mesta úrvalið af framsækninni músík, en þjónustan er góð við aðra, sbr. umfjöllun Klásúlna á því nýjasta nýja í poppmúsík.

En óbeit ÞH á "maóismanum" hefur leitt yfir hann blindu mikla, það kom nefnilega í ljós þegar hann heimsótti Rauðu stjörnuna (eftir að hann skrifaði um hana) sá hann ekkert nema bækur sem "falla eins og flís við rass austrænna moð hausakenninga". Það virðist vera svipuð blinda sem hrjáði fulltrúa EIK(m-l) er hann kom í búðina. Sá kom ekki auga á neitt nema bækur frá kremlherrunum (sbr. Verkalýðsblaðið), enda er KFÍ/ML "þjónkarar sovéskrar drottnunarstefnu" ef trúa má fréttatilkynningum eikaranna.

Stundum getur að líta sérkennilega hluti í blaðaskrifum og er Stéttabaráttan ekki alltaf undanskilin. Í 14. tbl. gat td. að lesa að "t.d. er búið að drepa algerlega niður dráttavélaframleiðslu í Póllandi". En 12 línum neðar lesum við að "verkfallsmenn í Ursus dráttavélaverksmiðjunum í nágrenni Varsjár rifu upp teina hraðlestarinnar..." Mættum við biðja um útskýringu.

Guðjón Styrkjason er velmetinn framsóknarmaður og einn af stærri fallstykkjum í þeim flokki. En laun hans eru af skornum skammti eins og nýlega opinberaðist í skattskránni. Sannast þar með að Framsóknarflokknum er ekki stjórnað af stórkapitalistum eins og illar tungur hafa sagt. Smælingjar á borð við Guðjón eru þar valdamiklir og fá jafnvel að hafa hönd í bagga með stjórnun fyrirtækja á vegum flokksins, þe. Hótel Hof. En hótelið hefur nýlega orðið að sjá á bak eins af stjórnarmönnum þess. Einar Karl Haraldsson, fréttastjóri Þjóðviljans, varð að segja af sér af pólitískum ástæðum - við krefjumst þess að hann fái stól sinn aftur og verði ekki látinn gjalda pólitískra skoðana sinna framvegis. (Allavega ekki á þessu sviði, en um afdrif hans og hans skoðana að öðru leyti viljum við ekki bera ábyrgð á til fulls).

Gorgeir.

# Pólitískur áróður í skólum

Eitt af því sem er bannað í skólum er öll umræða um þjóðfélagsmál, því að það er pólitík og pólitík er bönnuð. Forráðamenn skólamála og ýmsir skólastjórar eru dauðhræddir við þjóðfélagslegar umræður innan veggja skólanna vegna þeirrar hættu að þær leiði til einhverra óæskilegra niðurstaðna. Vinstrisinnaðir kennarar eru víða undir eftirliti til þess að þeir reki ekki pólitískan áróður. Dæmi mætti nefna um kennara, háskólamenntaðan í sagnfræði, sem ekki fékk að kenna sögu, þótt einmitt vantaði sögukennara. Það var vegna þess að hann var of pólitískur! Annað dæmi er um kennara sem ætlaði að spila plötur fyrir nemendurna. Skólastjórinn bað hann sérstaklega fyrir það að vera ekki með pólitík. Og þriðja dæmið fjallar um móttökur skólastjóranna á Akureyri þegar Alþýðuleikhúsið sendi þeim bréf og bauð þeim sýningu. Alþýðuleikhúsið fékk afar loðin svör þar sem þeir snéru sig frá því að svara af eða á, en skólastjóri gagnfræðaskólans sagði að "fyrr skyldi hann borinn út en að þetta helvítis kommúnistapakk kæmi inn í sinn skóla."

Það er undir yfirskyni hlutleysis sem pólitísk umræða er bönnuð í skólum. En kennslubækurnar eru ekki jafn hlutlausar.

Tökum okkur í hönd Mannkynssögu eftir Ólaf Þ. Kristjánsson. Af henni má helst ráða að fyrr á öldum hafi nær eingöngu verið til kóngar og keisarar því að alþýðufólks er sjaldan getið. Það þjónar afturhaldssömum tilgangi að skrifa svona bók og láta kenna hana.

Fleiri námsgreinar eru vettvangur fyrir svona áróður. Landafræði og félagsfræði eru það líka. En með trúarbragðafræðslunni er þó örugglega mest unnið. Þótt trúfrelsi sé eitt af ákvæðum stjórnarskrárinnar eru börn skyldug til að læra biblíusögur í skólum.

Í samræmi við hlutleysisstefnuna fá pólitísk æskulýðsfélög ekki að starfa í skólum. Rauðri Æsku hefur t.d. verið meinað að selja blað sitt sums staðar. En ýmis önnur æskulýðsfélög, svo sem kristileg æskulýðsfélög, stúkur, skátafélög og íþróttafélög fá aðgang að skólunum, bæði hvað snertir húsnæði og auglýsingar. Einhver kann að segja að þessi félög séu ekki pólitísk. Í vissum skilningi er það rétt, það er að segja ef menn gleyma því að til er fröken sem heitir "Ungfrú Engin Pólitík". Bak við sakleysislegt yfirbragð sitt fela þessi félög sitt af hverju. Kristileg félögin hafa að leiðarljósi Jesú Krist og postulana, m. a. Pál sem sagði:

"Sérhver maður sé yfirboðnum valdsstéttum hlýðinn; því að ekki er til nein valdsstétt nema frá Guði, og þær sem til eru, þær eru skipaðar af Guði; svo að sá, sem veitir valdsstéttinni mótstöðu, hann veitir Guðs tilskipun mótstöðu; en þeir, sem veita mótstöðu, munu fá dóm sinn". (Rómverjabréfið, 13. kafli, 1. og 2. vers)

Ég hygg að erfitt sé að halda því fram að í þessu felist ekki einhver pólitík. Og svo er með boðskap allra þessara félaga að hann getur ekki alltaf talist hlutlaus. Enginn má þó skilja þessi orð mín þannig að ég sé að fordæma öll þessi félög, ég er einungis að benda á tvískinnunginn í banni skólanna á pólitík.

-ing.

# Sjómanna samningar

frh. af fors.

arplássum er jafnvel algengt að allt að 3 sjómannafélög eða deildir séu starfandi (undirmenn, vélstjórar og stýrimenn). Svo pukrast forysta hvers félags í sínu horni, en afleiðingin er vitaskuld sú, að útgerðarmenn komast upp með alls konar glæpastarfsemi svo sem að borga ekki laun fyrr en eftir margra mánaða stapp og eftirrekstur.

Þegar jafn harkalega er vegið að kjörum sjómanna eins og gert er í dag verða þeir að jafna eða leggja til hliðar innri ágreining og sameinast í baráttunni gegn útgerðarauðvaldinu, einokunarhringunum í sjávarútvegi og ríkisvaldinu. Endurreisn sjómannafélagsanna undir stjórn starfandi sjómanna er það baráttutæki sem bítur. Slík félög verða síðan að tengjast á lýðræðislegan hátt, svo þau verði ekki ofurseld stéttsvikurum og skriffinnum eins og er í dag.

Sjómenn - engin samningsumboð til Sjómannasambandsins.

Semjið sjálfir í hverjum landsfjórðungi.

Sameinið félögin og rekið út útgerðarmenn og uppkeyptu forystuna.

Rvík 5/9 '76 / I. P.

# Bók til sölu

Ritnefnd Stéttabaráttunnar hefur borist að gjöf eintak af Sögu Kommúnistaflokks Ráðstjórnarríkjanna (bolsévíkanna) sem gefin var út 1949. Sá sem bókina gaf hafði keypt hana á fornsölu á 2000 krónur og fylgdi gjöfinni það skilyrði að hún yrði boðin til sölu í Stéttabaráttunni og söluverðmæti hennar rynni í útgáfusjóð blaðsins.

Bókin er mjög vel með farin, bundin inn í leðurlíki með gylltum áletrunum á kjöl og kápu.

Við tökum ekki við lægra tilboði en 2500 krónum.

Hér er kjörið tækifæri til að styrkja útgáfu blaðsins og eignast um leið sjaldgæfan kjörgrip - og pólitískt séð sennilega eina bestu bók sem komið hefur út á íslensku.

Settu þig í samband við Rauðu Stjörnuna, Lindargötu 15, og við höfum svo samband við þig ef þínu tilboði er tekið.

# Íþróttaæfingar

Reykjavíkurdeild Kommúnistaflokks Íslands m-l hefur tekið að leigu Íþróttahús Jóns Þorsteinssonar á sunnudögum milli kl. 14 og 16. Er ætlunin að iðka þar létta leikfimi og boltaleiki í vetur. Æfingataflan verður þannig að allir geta tekið þátt í æfingunum án tillits til aldurs. Af boltaleikjum verður blak sennilega mest iðkað í hæfilegu blandi af körfubolta. Við munum setja vináttu og skemmtun í fyrirrúm keppni. Af og til verður hluta tímans varið til pólitískra umræðna þar sem rædd verða tengsl íþrótta og stéttabaráttu, sósíalísk viðhorf til íþrótta osfr.

Við viljum hvetja alla félaga og stuðningsmenn flokksins til að koma. Þáttökugjaldi verður stillt í hóf, en því fleiri sem koma - þess minna á mann.

Mætið kl. 14 stundvíslega nk. sunnudag og takið með ykkur leikfimiföt og handklæði.

# Uppspretta lyganna

Ýmis blöð, allt frá Tímanum til Neista, eru af og til að birta greinar þar sem utanríkisstefna Kína er fordæmd. Lagsbræður Tímans og Neista út um allan heim gera hið sama - og allsstaðar kveður við svipaðan tón.

Þau atriði sem þykja aðfinnsluverð í stefnu Kína eru yfirleitt þau sömu - og það er ekkert undrunarefni þegar þess er gætt að það er sama uppspretta sem blöðin sækja visku sína í. Nefnilega fréttastofur sósíalheimsvaldasinnanna í Moskvu. Í nýlegu fréttaskeyti frá APN er gott sýnishorn af því efni sem birtist í ýmsum myndum víða um heim: "Pekingstjórnin er ekki aðeins fylgjandi hernaðarlegri nærveru Bandaríkjanna í Asíu, áframhaldandi hernaðarbækistöðvum Bandaríkjanna á meginlandi Asíu og Indlandshafi, maóistar afhjúpuðu sig algerlega í sambandi við atburðina í Angóla, er þeir stóðu við hlið CIA-málaliða og kynþáttakúgara frá Suður-Afríku. Allir sómakærir menn eru sárreiðir yfir stuðningi Peking stjórnarinnar við hina blóðugu fasistastjórn í Chile og vegna margra annarra atriða í stefnu maóistaklíkunnar" (APN nr. 161, 19. 8. '76).

Kannast lesendur ekki við tóninn?

Grettir

## Rauður vettvangur — Frá Lesendum

# Yfirstétt Sovétríkjanna leppur auðvaldsríkjanna

Þessa dagana er staddur við Laxá í Dölum aðalforstjóri Pepsi-fyrirtækisins banda ríska, Herra Kendall. Herra Kendall leigir Laxá í Dölum á hverju sumri, nú fyrir um $ 100.000, en býður með sér þangað ýmsum vinum, sem gegna álíka störfum og hann, t.d. aðalforstjóra Owens-Illinois o. fl.

Til að gera lesendum Stb. grein fyrir stærð þessara fyrirtækja, má geta þess að velta Pepsi á s. l. ári var $ 2.321.423.000 en Owens-Illinois aðeins minni, það er um $ 2.273.173.000. Bæði fyrirtækin eru umsvifameiri en t.d. Alusuisse, sem á verksmiðjuna í Straumsvík en það velti á s. l. ári um $ 1.505.589.000, þ.e. um 270 milljarða ísl. kr.

Umræddi herra Kendall kom hingað með þotu auðhringsins frá Moskvu, þar sem hann skoðaði verksmiðju(r) auðhringsins, enda eru um 15 Pepsi verksmiðjur reknar víða um Austur-Evrópu.

Í meðfylgjandi grein úr bandarísku tímariti er sagt frá vígslu Pepsi-verksmiðju í Sovétríkjunum. Til vígslunnar kom stjórnarnefnd Pepsi, frá Bandaríkjunum (takið eftir hverjir eiga sæti í téðri stjórn arnefnd.) og herra Brésneff. Á mynd sem fylgir greininni, sést Kendall bjóða Brésneff Pepsi-flösku, það fyrstu, sem rússneska verksmiðjan framleiddi. Brésneff virðist mjög kátur.

Skv. upplýsingum frá umboðsmanni Kendall hér á landi ætlaði herra Kendall að endurgjalda Brésneff fyrir fyrirgreiðsluna. Í fyrra stóð til að Brésneff kæmi í boði Kendalls til að veiða í Laxá í Dölum. Eftir þriggja klukkustunda bið á Keflavíkurflugvelli, barst Kendall skeyti frá Brésneff þess efnis, að úr heimsókninni gæti ekki orðið.

Sé þessi saga táknræn fyrir þróunina í Austur-Evrópu, þá virðist yfirstétt þessara landa orðin að leppstétt auðvaldsríkjanna á vesturlöndum. Yfirstéttin opnar vestrænum auðhringum aðgang að þægu vinnuafli Austur-Evrópu og mörkuðum, og fær þess í stað gjafir, fyrirgreiðslur og það sem er enn mikilsverðara ... frið til að halda völdum til að kúga og arðræna eigin alþýðu.

Með baráttukveðjum,
lesandi.

Stéttabaráttan mun í framtíðinni í auknum mæli flytja fréttir af innreið alþjóðlegs auðmagns í A-Evrópu

# Frá Neskaupsstað: Enn um skítkast

Í blaðinu fyrir nokkru birtist bréf frá ungum norðfirðingi, AL, sem ávíti Hjálmtý Heiðdal fyrir orðalag í grein í Stb. Bréfinu var vel tekið af fólki sem las það hér í plássinu, en svari Hjálmtýs ekki að sama skapi. Það er ætlan mín að at huga lítilsháttar ástæðurnar fyrir þessu.

Kjarni bréfs AL var þessi: "Grein nokkur birtist í 7. tbl Stb. undir fyrirsögninni "Kastljós". Þar var lýst með mikilli hæðni umræðum tveggja alþingismanna, þeirra Lúðvíks Jósepssonar og Gylfa Þ. Gíslasonar í sjónvarpsþættinum Kastljósi 19. mars sl. Því miður missti ég af umræddum þætti en um greinina get ég sagt að mér fannst hún nauðaómerkileg. Enginn tilgangur nema að níða mennina og málstað þeirra." Máli sínu til stuðnings vitnar bréfritari í Maó: "Kommúnistar eiga ekki að smána pólitískt óþroskaða menn og sýna þeim lítilsvirðingu. Þeir eiga að vingast við þá, taka höndum saman við þá, sannfæra þá og hvetja þá til að sækja fram."

Hjálmtýr þakkar bréfritaranum í svari sínu, en segir að hann hafi farið á mis við mikilvægasta þátt málsins. Lúðvík og Gylfi séu ekki pólitískt óþroskaðir, þeir séu fullveðja fulltrúar borgaralegrar pólitíkur, stéttaróvinir verkalýðsins sem ekki sé hægt að vingast við, sem ekki megi hlífa.

Vitaskuld er þetta hárrétt hjá Hjálmtý - bréfritarinn mis reiknar sig ef hann telur Lúðvík og Gylfa pólitískt óþroskaða. En samt finnst mörgum bréf þessa unga norðfirðings orð í tíma töluð. "Svoleiðis skítkast á ekki að birtast í svo góðu blaði sem Stéttabaráttan er", sagði bréfritarinn sjálfur við mig. Og hvers vegna urðu menn fyrir vonbrigðum með svar Hjálmtýs?

Nú finnst mér að Hjálmtýr hafi sjálfur farið á mis við mikilvægasta þátt málsins. Athugum nánar: Hver er tilgangur Hjálmtýs með að nota háð í grein sinni? AL segir: "Enginn tilgangur nema að níða mennina og málstað þeirra." Er þetta rétt?

Ekki fyllilega. Tilgangur Hjálmtýs er að sjálfsögðu að sannfæra lesendur sína um að stefna þessara manna sé röng og gegn hagsmunum verkalýðs. Hjálmtýr notar háð í þessum tilgangi. Að vísu ekki fram úr hófi; og satt er að dæmum um slíkt fer ört fækkandi í blaðinu. En bersýnilega ekki nógu ört. Menn eru þess fullminnugir að Stb. og önnur rit KSML gamla notuðu háð og níð sér til ógagns, og ef Stb. á að hreinsa af sér þetta óorð má ekki gefa á sér höggstað. Vissulega eru allir hugsandi menn sammála um að ASÍ-forystan sé "uppkeyptur afætulýður á jötu hjá auðvaldinu", en vilja menn endilega sjá þetta orðalag á prenti?

Mér þykir líklegt að vinnandi alþýða þessa lands hafi ekki tíma né geð í sér á þessu stigi málsins til að hæða þá menn sem bera ábyrgð á öförum hennar. Kannski er hún ennþá ekki nógu reið. Kannski verður það aldrei háttur hennar að draga dár. Eða kannski er hún þess meðvitandi, að ennþá sé ekki kominn tími til að gera gys að þessum mönnum og málstað þeirra. Íslenskur verkalýður í dag hefur ekki gaman af skítkasti, hann vill heldur sýna fyrirlitninguna sína með því að snúa baki við þessum mönnum, og þegjandi og einbeittur byggja upp flokk sem svíkur ekki og sem þjónar stefnu sem stéttasamvinnumennirnir boða.

En hér með er ekki öll sagan sögð. Að vísu er stefna Alþýðubandalagsins og annarra fulltrúa kratismans einskis nema háðs virði. Einmitt þess vegna á fólk í stuðningsmanna Alþýðubandalagsins eftir að snúast í lið með KFÍ/ML. Það er stórfelld móðgun við þennan hluta alþýðunnar að ætla sem svo, að hún geri sér ekki grein fyrir rangri stefnu AB. Hann gerir sér fulla grein fyrir þessu, og er núna að leita að raunhæfari stefnu. Hann þarf ekki á háði að halda til að vekja sig úr pólitískri deyfð; þvert á móti hljóta stuðningsmenn AB og annarra borgaralegra flokka að taka slíkt háð til sín, þannig að tilvitnun AL í Maó á fyllilega við hér. Kommúnistar eiga ekki að draga dár að rangri stefnu til að fá stuðningsmenn hennar til að snúa við henni baki, heldur eiga þeir að "vingast við þá, taka höndum saman við þá, sannfæra þá og hvetja þá til að sækja fram." Rétt aðferð er að sýna fram á með ljósum rökum að stefnan sé röng, og boða um leið rétta stefnu - ekki meira.

Ef Stéttabaráttan á að vera málsvari verkalýðs og vinnandi alþýðu verður hún að taka mál sem verkalýður líkar. Hin félagslega þroskaða íslenska alþýða heimtar eingöngu réttar upplýsingar, rétta rökfærslu, og skýra boðun raunhæfrar stefnu frá Kommúnistaflokki sínum.

-/p.

# Vopnuð barátta gegn Apartheid



Alþýða Asaníu (eða S-Afríku eins og landið heitir á máli vestrænna landabréfabóka) hefur nú risið upp gegn kúgun og ógnarstjórn hinnar hvítu yfirstéttar. Í áratugaraðir hefur yfirstétt Asaníu notað aðskilnaðarstefnuna svonefndu (apartheid) til að festa sjálfa sig í sessi og sundra einingu alþýðunnar.

Í Asaníu eru 4 kynþættir. Fjölmennastur þeirra eru svertingjar (uþb. 70%) en mun færri eru menn af asísku bergi brotnir, kynblendingar og hvítir menn. Yfirvöld í Asaníu hafa veitt þessum kynþáttum mismunandi mikil réttindi og þannig sáð fræi sundrungar meðal hinna kúguðu. Einn þáttur í aðskilnaðarstefnu stjórnarinnar er stofnun hinna svokölluðu "sjálfstjórnarsvæða". Svæði þessi eru ekki sjálfstæð nema að nafninu til en tilvist þeirra hefur hins vegar stuðlað að enn frekari sundrungu meðal asanskrar alþýðu. Fjöldi fólks hefur verið rifið úr heimahögum sínum og flutt nauðugt til sjálfstjórnarsvæðanna. Jafnvel hafa íbúar heilla þorpa verið fluttir slíkum nauðungarflutningum.

En tilraunir fasistastjórnarinnar til að sitja áfram í valdastóli með hjálp æ meiri harðstjórnar eru fyrirfram dauðadæmdar. Alþýða Asaníu sameinast nú óðum í baráttunni fyrir réttlætinu. Kynblendingar, asíumenn og meira að segja hluti hvítra manna ganga nú í raðir hins stríðandi meirihluta. Alþýðan hefur lært af sárri reynslu undanfarinna ára.

Er svertingjar mótmæltu friðsamlega árið 1960 lögum er skylda þá, sem af svörtu bergi eru brotnir, til að bera persónuskilríki, skaut lögreglan á mannfjöldann - án nokkurrar viðvörunar. Þá létust 69 manns og 168 særðust. Og harðfylgi lögreglunnar eykst stöðugt. Fyrir rúmlega tveimur mánuðum mótmæltu skólabörn því að vera neydd til að læra á máli kúgara sinna í skólum. Þá framdi lögreglan fjöldamorð á börnum sem ekki einu sinni höfðu ná 16 ára aldri.

Þetta eru tvö dæmi um þær mannfórnir sem kennt hafa asanskri alþýðu þann bitra sannleik að barátta fyrir mannsæmandi lífi í lögregluríki verður ekki háð án vopna. Harðstjórn Vorsters hefur sjálf ákveðið örlög sín.

Í Asaníu eru nú tvær hreyfingar sem stofnaðar eru til að berjast gegn fasistastjórninni. Völdin í annarri hreyfingunni, ANC, eru í höndum endurskoðunarsinna - þ.e. raunverulega fulltrúum heimsvaldasinnanna í Moskvu. Þar til nýlega var ANC á móti vopnaðri baráttu, enda höfðu margir af forystumönnunum sameiginlegra hagsmuna að gæta með Vorsterklíkunni. En hreyfing fjöldans hefur neytt ANC til breyttrar afstöðu til vopnuðu baráttunnar Allt kemur þó fyrir ekki. Fylgi ANC minnkar og klofningur er innan hreyfingarinnar Fjöldinn hneigist æ meir til fylgis við frelsishreyfinguna PAC, enda hefur hún sýnt heiðarleika sinn og hollustu við fjöldann með virkri þátttöku í átökum síðastliðinna tveggja mánaða.

En atburðirnir í Asaníu eru hluti af stærra ferli. Hér fyrir framan hefur komið fram að rússnesku heimsvaldasinnarnir reyna nú að ná ítökum innan frelsishreyfingarinnar í þeirri von að Asanía lendi einhvern tímann á áhrifasvæði þeirra. En núverandi valdhafar, Vorster-klíkan, eru ekki annað en leppar NATO og Bandaríkjanna. Vesturveldin halda þannig fasistastjórninni uppi með fjárframlögum og fá í staðinn sinn skerf af auðæfum Asaníu. Ljóst er að skollaleikur risaveldanna er beint sem óbeint uppspretta þess stjórnarfars sem enn ríkir í Asaníu.

En alþýða landsins berst ótrauð við hlið bræðra sinna í öðrum löndum þriðja heimsins gegn auðvaldi og heimsvaldastefnu.

-/HB

## Jarðskjálftarnir í Kína

# Sigur yfir náttúrunni

Hinir feiknarlegu jarðskjálftar sem urðu á Tangshan - Fengnan svæðinu í Kína fyrir skemmstu, eru gott dæmi um yfirburði hins sósíalíska þjóðskipulags yfir auðvaldsþjóðfélaginu. Þeir sýna, að þá fyrst þegar hinn vinnandi múgur er orðinn herra yfir þjóðfélaginu reynist unnt að sigrast á hamförum náttúrunnar, jafnvel þótt þær séu eins hrikalegar og raun ber vitni um í Tangshan - Fengnan. Fyrr á öldum voru jarðskjálftar mestu ógnvaldar fyrir alþýðu Kína. Tugir og jafnvel hundruð þúsunda misstu eignir sínar og týndu lífi í geysilegum jarðhræringum og afturhaldsmennirnir sem stjórnuðu landinu stóðu ráðþrota gagnvart eyðileggingunni og hirtu í engu um líf og tjón milljónafjöldans. En Kína nútímans, undir öruggri handleiðslu verkalýðsstéttarinnar hefur unnið markvisst að því að útrýma hættunni af jarðskjálftunum. Í Tangshan milljónaborginni sem varð verst úti í jarðskjálftanum kom hugrekki og agi alþýðunnar í veg fyrir að ógnarlegar afleiðingar fylgdu í kjölfarið.

"Verið staðföst, hræðist engar fórnir og vinnið bug á sérhverjum erfiðleikum til að öðlast sigur."

Þessi orð Maó formanns hafa verið leiðarljós hinnar hetjulegu alþýðu Tangshan-borgar í baráttunni gegn hamförum náttúrunnar. Hópar verkafólks hafa flykkst til björgunarstöðvanna og enginn hefur skotist undan erfiðleikunum sem við hafa blasað. Og fórnfýsin og hetjulundin bar líka ríkulegan ávöxt. Á skömmum tíma tókst að koma rafveitu til borgarinnar í samt horf og vatnsmiðlun komst svo fljótt á aftur að furðu gegnir. Skömmu eftir jarðskálftana voru járnbrautir og vegakerfi endurbyggð og hinar mikilvægu Kailun kolanámur komust aftur í gagnið. Tæpur mánuður leið þar til kolanámuverkamennirnir gátu hafið framleiðslu í námunum að nýju.

Hinir skelfilegu atburðir 28. júlí höfðu ekki svipt verkafólkið óbilandi kjarki sínum, heldur gert það enn ákveðnara í að byggja sósíalísku framleiðsluna upp hraðar og betur, landi sínu og stétt til hagsbóta. Meira að segja fengu áskrifendur dagblaðsins "Tangshan-vinnan" blöðin fljótlega send í tjöldin þar sem þeir bjuggu meðan hættuástandið varaði og hvatningar og pólitísk leiðsögn blaðsins höfðu mikla þýðingu við skipulagningu endurreisnarstarfsins. Jafnvel skólar voru settir upp í tjöldum og fyrsta lexía nemendanna var "Maðurinn mun sigrast á náttúrunni."

Maó formaður og miðstjórn Kommúnistaflokks Kína sendi frá sér orðsendingu til íbúa jarðskjálftasvæðanna og Hua Kuo Feng, forsætisráðherra, tók persónulega að sér leiðsögn uppbyggingarstarfsins. Hann er vanur slíku skipulagsstarfi (stjórnaði til að mynda byggingu áveitukerfis í heimafylki sínu, Hunan, fyrr á árum) og þrautreyndur leiðtogi.

Fólkið sýndi ótrúlega hetjulund. Þrátt fyrir missi ástvina hugsuðu leiðtogar flokksdeildar Tangshan-borgar fyrst og fremst um hagsmuni stéttarinnar. Bændurnir í kommúnunum umhverfis Tangshan biðu mikið eignatjón, þegar hús þeirra hrundu saman í skjálftunum. En fyrsta hugsun þeirra var, að verkalýður Tangshan yrði að fá matarbirgðir til þess að brauðfæða fjöldann sem misst hafði eignir sínar í hörmungunum. Aðaláherslan er lögð á að endurreisa framleiðsluna og endurbyggja heimili fólksins. Þrátt fyrir óskaplega erfið skilyrði hafa margar verksmiðjur hafið starf að nýju.

### Sigur Tangshan er líka sigur yfir endurskoðunarstefnunni

Verkalýður Tangshan-borgar mun hvorki beygja sig fyrir náttúruöflunum, né heldur þeim öflum sem reyna að endurreisa arðránsþjóðfélag kapitalismans í Kína. Þeir hafa eflt gagnrýni sína á endurskoðunarsinna og sýnt umheiminum hvers megnug alþýðan er, þegar hún lýtur marxískri-lenínískrileiðsögn Maó formanns og Kommúnistaflokksins. Verkafólkið í Tangshan segir: Borgin okkar er hrunin og við höfum horft á náttúruna leggja uppbyggingarstörf okkar í rústir. En við munum reisa nýja og enn fallegri Tangshan og við munum halda áfram að byggja upp sósíalismann með endurnýjuðum krafti.

Aðstoð hefur borist hvaðanæva að úr Kína. Læknar, verkfræðingar, baráttuhópar verkamanna, tæknimenntað fólk og aðrir sjálfboðaliðar hafa hópast til Tangshan til að taka þátt í endurbyggingu og viðreisn borgarinnar. Eftir skjálftana fluttu flugvélar, þyrlur, vörubílar og járnbrautarlestir vistir og sjúkragögn í geysilegu magni til Tangshan svæðisins. Verkafólk í Peking lagði á sig margfalda vinnu til að auka framleiðslu sína nægilega til þess að geta séð jarðskjálftasvæðunum fyrir brýnustu nauðsynjum. Fjölmargir hröðuðu sér á vettvang til að taka þátt í björgunarstörfunum, en þeir sem eftir urðu margefldu starf sitt og þrátt fyrir að þeir væru liðfærri juku þeir framleiðsluna um mikið magn.

Barátta verkalýðsins í Tangshan og öðrum hlutum Kína hefur sannað umheiminum, að maðurinn er þess umkominn að vinna bug á jafn ógnarlegum hamförum náttúrunnar og þessum jarðskjálftum af eigin rammleik.

Lykillinn að sigrum tangshanbúa er þjóðfélagsleg völd verkalýðsstéttarinnar. Samfélagsleg skipulagning sósíalismans hefur enn einu sinni sýnt yfirburði sína yfir einstaklingshyggju auðvaldsþjóðfélagsins og samtakamátt sinn gagnvart náttúruöflunum. Ekkert fær komið verkalýðsstétt Kína á kné, hvorki einangrun heimsvaldasinna, fjárkúganir sósíalheimsvaldasinna, né skelfingar náttúruhamfaranna. Þeir tímar munu koma, þegar alþýða alls heimsins mun feta í fótspor kínverskrar alþýðu og samfélagsleg skipulagning mannkynsins mun fá því áorkað, að hættunni af náttúruhamförum verður útrýmt. Reynsla verkalýðsins í Tangshan er mikilsvert fordæmi fyrir alþýðu alls heimsins, jafnframt því sem hún er sigur yfir eyðileggingaröflunum sem berjast gegn alræði öreiganna í Kína.

-/KG



Liu Chin-cheng, flokksritari í Santsun-héraði var einn þeirra sem slösuðust í jarðskjálftanum. Þrátt fyrir það hóf hann þegar skipulagsstarf meðal fjöldans við endurreisn framleiðslunnar og dýpkun gagnrýnisherferðarinnar gegn Teng Hsiao-ping og hægri kenningum hans.



## ... í stuttu máli

### PORTUGAL: MÓTMÆLI GEGN SPINOLA

Tugþúsundir gengu um götur Lissabon þann 12 ágúst til að mótmæla því að Spinola fyrrverandi forseta skyldi leyft að koma inn í landið á nýjan leik. Mikil verkföll áttu sér stað í mótmælaskyni, og í iðnaðarborginni Setubal lá næstum öll vinna niðri. Þessar aðgerðir sýna vel það hatur sem alþýða Portugal hefur á Spinola, sem í tvígang hefur reynt hægrivaldarán, og er leiðtogi ELP, ólöglegra fasistasamtaka. Afstaða stjórnarinnar að leyfa Spinola að fara frjáls ferða sinna eftir dags yfirheyrslur sýnir að í Portugal fá fasistar og hægri-öfgamenn að vaða uppi, á sama tíma og vinstrimönnum eru settar hömlur og ríkisvaldinu beitt gegn faglegri og pólitískri baráttu verkafólks. Sama dag og það var kunngert að Spinola fengi landvist var kunngert að tveir síðustu vinstrisinnuðu herforingjarnir hefðu verið leystir frá störfum fyrir að neita að hlýða fyrirskipunum. Þeir neituðu að beita hernum gegn samyrkjubúum smábænda í S-Portugal.

### FORDÆMUM ÍTALSKA FASISTA:

Ungur ítalskur námsmaður úr verkalýðsstétt, Gaetano Amorso lést fyrir skömmu eftir að hafa verið barinn til óbóta af fasistum í götubardögum í Mílano í apríl s.l. Gaetano, sem var 21. árs að aldri, var meðlimur í Marx-leniniska Kommúnistaflokk Ítalíu, og framarlega í and-fasiskum fjöldasamtökum. Hann tók virkan þátt í fjöldabaráttu verkalýðs og and-fasista fyrir sósíalisma og frelsi.

Þegar félagar úr ritnefnd Stéttabaráttunnar voru á ferð um Ítalíu í fyrra dvöldu þeir í Mílano í boði Marx-leniniska-Kommúnistaflokksins (PCMLI) og kynntu sér m.a. starf and-fasísku fjöldasamtakanna sem Gaetano Amorso starfaði með. Með dauða hans hefur enn eitt fórnarlambið fallið fyrir ofbeldisverkum fasista, en árlega eru fjöldi and-fasista myrtir með fullri vitneskju yfirvalda, sem þó gera ekkert til að hindra starfsemi fasista. Dauði Amorso hefur orðið and-fasistum hvatning til að herða enn baráttuna gegn morðingjum hans og láta ekki staðar numið fyrr en alþýðan hefur kollvarpað auðvaldsþjóðfélaginu og komið fasistahyskinu undir græna torfu.

Stéttabaráttan sendir félögum okkar á Ítalíu baráttukveðjur. Niður með fasismann!

### VERKFÖLL Í MEXICO

Átta daga verkfalli sem verkamenn í Volkswagenverksmiðjunum í Puebla í Mexico háðu lyktaði með fullum sigri. Hinir þýsku eigendur neyddust til að hækka laun 7000 verkamanna um 17% og stytta vinnutíma þeirra.

### ÁSTRALIA: ALLSHERJARVERKFALL.

Meira en þrjár milljónir ástralskra verkamanna, eða nær 50% allra verkamanna í Ástralíu mættu ekki til vinnu 12 júní sl. til að mótmæla breytingum á heilsugæslu og sjúkrasamlagi sem stórlega rýrði kjör og möguleika verkamanna til heilbrigðisþjónustu.

# Albaníu „fréttir" moggans

Það er ekki ofsögum sagt af því hvernig borgaralegir fjölmiðlar afbaka og ljúga til um sósíalismann. Morgunblaðið hefur stundað þá iðju um áraraðir, bæði með eigin heimatilbúnum lygum og einnig með upptuggu erlendra lyga.

Þ. 20. júlí sl. birtist grein í Mbl. um Albaníu og albani búsetta í Júgóslavíu. Mér ofbauð sú vitleysa sem þar er boðið uppá, rangfærslurnar rekast þar hver á aðra. M.a. segir að ríkisstjórnin í Belgrad sýni albönum búsettum í Júgóslavíu umburðarlyndi og skilning og jafnvel dekstri við þá. Einnig er sagt að það sé sök ríkisstjórnar Albaníu, "en þar er fremstur í flokki harðlínukommúnistinn Enver Hoxha", að albanir búsettir í Júgóslavíu fái ekki að heimsækja Albaníu. En svo er því lýst í greininni eins og ekkert hafi í skorist, að "allmargir Kosovo Albanir (Kosovo er hérað í Júgóslavíu) dveljast nú bak við lás og slá fyrir að hafa látið skoðanir sínar of glöggt í ljós." En hvaða skoðanir hafa þessir sem lenda á bak við lás og slá? Jú, "fjölmargir albanir í Kosovo eiga þá ósk heitasta að tengjast föðurlandinu sínu órjúfandi böndum."

Aðrar vitleysur eru í greininni, t.d. er því haldið fram að í því héraði sem lægstar meðaltekjur hefur í Júgóslavíu séu þær þó öllu hærri en almennt í Albaníu. Þetta er algjör firra og allir þeir sem hafa heimsótt þessi lönd vita betur. Þá er í greininni sagt að albanir búsettir í Júgóslavíu séu kallaðir Skiptar "en það nafn þykir heldur niðurlægjandi". Nú vill svo til að á albönsku heita albanir skiptar og landið sjálft Shquiperise (Skvípería) og þykir engum það niðurlægjandi.

Ég hef aðeins komið við nokkrar af þeim rangfærslum sem þessi hálfsíðugrein inniheldur, en hún er gott dæmi um lygaáróðurinn gegn sósíalismanum sem hellt er yfir okkur undir því yfirskini að verið sé að "upplýsa okkur um gang mála."

Albaníuvinur



"Friðarpostuli" bandarísku heimsvaldastefnunnar, Kissinger, hefur gert víðreist um Afiríku undanfarna mánuði. Markmið ferðalaganna er að sögn talsmanna "detente" og heimsvaldastefnunnar að "reyna að finna friðsamlega lausn á vandamálum álfunnar." En frelsishreyfingar Afríku vita, að það sem Kissinger er að reyna að gera er að afvopna frelsishreyfingarnar kynþáttakúgurunum í Rhodesiu og S-Afiríku til góða. Blóðug spor Kissingers er að finna í Kambódiu, fyrir botni Miðjarðarhafs, á Kýpur og alls staðar annanrstaðar þar sem alþýðan berst fyrir frelsi undan heimsvaldastefnunni. Meðfylgjandi mynd lýsir vel viðhorfi kúgaðrar alþýðu heimsins til þessa blóðidrifna glæpamanns



# Fundur KFÍ/ML um skattana

Kommúnistaflokkur Íslands hélt almennan fund um skattamálin í Lindarbæ, 6. sept. s.l.

Framsöguræður héldu Kristján Guðlaugsson og Matthías V. Sæmundsson. Fundurinn heppnaðist all vel, en hann sóttu tæpl. 50 manns, og urðu talsverðar umræður á eftir framsöguræðum.

Á fundinum var samþykkt eftirfarandi ályktun:

"Almennur fundur, haldinn af Kommúnistaflokki Íslands m-l 6. sept. 1976 samþykkir eftirfarandi ályktun um skattamálin:

Skattskráin í ár ber þess glögglega merki, að skattaálögur hafa verið stórauknar á vinnandi fólki, á sama tíma og stóreignamenn og fyrirtæki sleppa við öll meiriháttar útgjöld til ríkis og bæja. Fundurinn mótmælir harðlega þeim ranglátu skattalögum, sem bjóða auðmönnum og fyrirtækjum upp á skattfríðindi, þegar lágtekjufólk er látið bera byrðar vaxandi efnahagserfiðleika með svívirðilegri skattpíningu.

Fundurinn setur fram eftirfarandi kröfur í baráttunni gegn ranglæti skattalaganna:

1. Skattar á launum lágtekjufólks verði afnumdir.
2. Óbeinir neysluskattar á nauðsynjavörum verði afnumdir.
3. Skattafríðindum auðmanna og auðfyrirtækja verði útrýmt og stighækkandi sköttum komið á í raun.

Það er álit fundarins, að verkalýðshreyfingin sem heild verði að taka þetta mál fastari tökum og hvetja verkafólk til baráttu gegn ranglátum skattalögum."

# Lærum af gagnrýni fjöldans

"Til þess að tengjast fólkinu verða menn að starfa í samræmi við þarfir og óskir þess" (Maó Tse-tung).

Kommúnistaflokkurinn er forystuafl verkalýðsins í hagsmunabaráttu hans sem og hinni pólitísku baráttu. Ef barátta verkalýðsins á að bera einhvern árangur verður flokkurinn að tengjast hinum vinnandi fjölda traustum böndum. Til að það verði nokkurn tíma mögulegt verðum við að læra að hlusta á gagnrýni fjöldans, hlusta á þarfir hans og óskir og koma til móts við þær. Án slíkra tengsla við verkalýðsfjöldann er tómt mál að tala um Kommúnistaflokkinn sem forystuafl verkalýðsstéttarinnar.

Þegar KFÍ/ML hélt útifundinn 21. ágúst til að mótmæla hernaðaríhlutun sósíalheimsvaldasinnanna í Tékkóslóvakíu voru margir verkamenn í álverinu í Straumsvík óánægðir með það, að við skyldum vera að einbeita okkur að því, sem væri að gerast erlendis, í stað þess að rannsaka þau mál, sem efst eru á baugi á Íslandi í dag, s.s. skattamálin og ávísanafalsið. "Hvers vegna reynið þið ekki heldur að snúa ykkur að því sem er að gerast hér á landi? Hvers vegna haldið þið ekki fund um skattana?" var spurt.

Þessi gagnrýni á að nokkru rétt á sér og við verðum að taka mark á henni. Hins vegar ber gagnrýnin þess merki, að íslenskur verkalýður er ekki nógu vakandi gagnvart stríðsundirbúningi risaveldanna, en mótmælastaðan fyrir framan sovéska sendiráðið var einmitt liður í baráttunni gegn þessum stríðsundirbúningi, og því verðum við að gefa þessu atriði sérstakan gaum.

En sú gagnrýni sem við höfum fengið frá verkamönnum hefur nú verið tekin til greina og verður haldinn sérstakur fundur á vegum KFÍ/ML um skattamálin - og hefur sjálfsagt þegar verið haldinn, er þetta birtist.

Þetta kennir okkur, að við verðum að læra af gagnrýni fjöldans, hlusta á þarfir hans og óskir og færa þær meðvitað út í starfi.

-/Straumsvíkursella

# Starf hafið í hverfahópum á vegum herstöðvaandstæðinga

Fyrir skömmu hófst starf í nokkrum hverfum Reykjavíkur á vegum herstöðvaandstæðinga. Þessi hverfi eru Gerða- og Bústaðahverfi (nær einnig yfir Hvassaleiti), miðbæjarhverfi og vesturbær.

Miðnefnd hefur átt lítið frumkvæði að því að koma af stað starfi meðal hins almenna herstöðvaandstæðings, enda hafa þessir hópar verið stofnaðir fyrir frumkvæði einstaklinga úr hópi herstöðvaandstæðinga, og var boðað til funda eftir skrám herstöðvaandstæðinga.

Lítil reynsla er komin á starf hópanna, þar sem þeir eru tiltölulega nýbyrjaðir að starfa, en helstu hugmyndirnar um starfið eru þær að þetta verði fyrst og fremst áróðurshópar, sem myndu e.t.v. gangast fyrir kvöldvökum í viðkomandi hverfi. Þá hefur komið fram sú hugmynd að skipta hverfahóp niður í áhugahópa, sem tækju að sér að rannsaka ákveðin mál, t.d. tengsl flokka við herstöðvamálið o.fl. En fram að stofnþingi herstöðvaandstæðinga, sem verður dagana 16-17. október, skulu hverfahóparnir einbeita sér að því að ræða þær tillögur sem komið hafa fram um stefnuskrá herstöðvaandstæðinga, og birst hafa í Dagfara. Það er einmitt mikilvægt að niðurstöður þingsins verði byggðar á niðurstöðum umræðna slíkra hópa.

Stéttabaráttan hvetur alla herstöðvaandstæðinga til að taka þátt í þeim hópum sem þegar hafa verið stofnaðir, og stofna nýja hópa í þeim hverfum sem það hefur ekki þegar verið gert.

Hægt er að hafa samband við eftirfarandi úr þeim hópum sem hafa verið stofnaðir:

Stefanía Traustadóttir í miðbæjarhóp sími: 22351.
Haukur Sigurðsson í Gerða- og Bústaðahverfi sími: 82770.
Örn Ólafsson í vesturbæ norðan Hringbrautar sími: 21604.
Páll Stefánsson í vesturbæ sunnan Hringbrautar sími: 16871.
Hafsteinn Karlsson í Kóp. 40388

# Klárið kvótann!

Nú hefur áskriftarherferðin staðið yfir í rúma 8 mánuði án þess að markinu sé náð. En lokin eru skammt undan eins og sjá má af teikningunni sem sýnir stöðuna eins og hún var er blaðið fór í prentun. Alls eru 182 nýir áskrifendur komnir og því 18 ókomnir til þess að markinu sé náð. Mjög misjafnlega hefur gengið eftir svæðum Eins og sjá má þá er Akureyri eina plássið sem hefur ekki farið yfir 50% línuna. Ástæðan er m.a. sú að það hefur verið tiltölulega stór hluti skólafólks í starfi á Akureyri og deildin ekki náð að rótfesta sig meðal Akureyringa sjálfra. Við beinum þeirri áskorun til félaganna á Akureyri að taka mið af ástandinu og herða starfið á öllum sviðum, þ.á.m. við söfnun áskrifta. Það ber þó að taka það fram að Akureyringarnir eiga sinn skerf af þeim góða árangri sem hefur náðst á norðurlandi, en þar er metið, kvótinn fylltur og rúmlega það. Reykjavík er ekki komin í höfn eins og sjá má. En Reykjavíkurdeildin hefur verið í vexti að undanförnu og mun það sýna sig betur í verki þegar félagarnir herða áskrifendasöfnunina til muna með haustinu.

Í heild má segja að þessi herferð hafi ekki gengið eins vel og sú sem stóð árið 1975, ástæður þess hafa ekki verið kannaðar nægilega til þess að hægt sé að gera því skil í þessum línum. En við beinum því til allra baráttumanna STÉTTABARÁTTUNNAR að skoða sitt starf fyrir blaðið rækilega og vinna að því að sigrast á röngum starfsstíl og frjálshyggju, það er áríðandi að félagarnir vinni vel við útbreiðslu blaðsins til þess að okkur sé kleift að gefa það út vikulega í náinni framtíð.

## Áskriftaherferðin

| Svæði | Kvóti | 50% – 100% |
|---|---|---|
| Akureyri | 25 | 11 |
| Egilsstaðir | 5 | 4 |
| Hafnarfjörður | 10 | 6 |
| Húsavík | 5 | 4 |
| Keflavík | 10 | 11 (110%) |
| Kópavogur | 12 | 14 (117%) |
| Neskaupsstaður | 7 | 6 |
| Reykjavík | 80 | 69 |
| Suðurland | 15 | 15 |
| Vesturland | 10 | 15 (150%) |
| Norðurland | 5 | 13 (260%) |
| Austurland | 10 | 10 |
| Útlönd | 6 | 8 (133%) |
| Heildin | 200 | 186 |